Til

# Herra Páls Gaimard

í samsæti Islendínga

í Kaupmannahöfn.

---

Þann 16. Janúari 1839.

Þrykkt í Berlínga prentverki.

Þú stóðt á tindi Heklu hám
og horfðir ifir landið fríða,
Þar sem um grænar grundir líða
skjínandi ár að ægi blám;
enn Lokji bundinn beíð í gjótum
bjargstuddum undir jökulrótum —
Þókti þjer ekkji Island þá
ifirbragðsmikjið til að sjá?

Þú reíðst um fagran fjalladal
á fákji vökrum götu sljetta,
Þar sem við búann brattra kletta
æðandi fossar eiga tal,
Þar sem að una hátt í hlíðum
hjarðir kátar með lagði síðum —
Þókti þjer ekkji Island þá
íbúum sínum skjemtan ljá?

Þú komst á breíðan brunagjeím
við bjarta vatnið fiskjisæla,
Þar sem við áður áttum hæla
frístjórnarþíngji frægu' um heím;
nú er þar þrotin þirpíng tjalda,
Þögult og dapurt hraunið kalda —
Þókti þjer ekkji Island þá
Alþíngji svipt með hrelda brá?

Nú heílsar þjer á Hafnar slóð
heímanaf Fróni vina flokkur;
við vitum glöggt að anntu okkur,
frakkneskur maður frjálsri þjóð;
Því andinn lifir æ hinn sami,
Þótt afl og þroska nauðir lami.
Mentanna brunni að bergja á
besta skal okkur hressíng ljá.

Vísindin efla alla dáð,
orkuna stirkja, viljann hvessa,
vonina glæða, hugann hressa,
farsældum vefja líð og láð;
Tífaldar þakkjir því ber færa
Þeím sem að guðdóms-eldinn skjæra
vakjið og glætt og vrendað fá
vizkunnar helga fjalli á.

Þvílíkar færum þakkjir vjer
Þjer, sem úr filsknum náttúrunnar,
gjersemar, áður aldreí kunnar,
með óþreítanda afli ber.
Heíll sje þjer Páll! og heíður bestur!
hjá oss sat aldreí kjærri gjestur.
Alvaldur greíði æ þinn stig!
Island skal leíngji muna þig.

***Jónas Hallgrímsson.***